Jón Konráðsson:

# Þorkell Ólafsson stiptprófastur.

Viðey 1821.

# Stutt Agrip

um

# Þorkells Olafssonar,

Stipt-prófasts í Hóla Stipti,

margbreyttu og eptirminnilegu

## Lífs-Tilfelli.



Skrásett af

Jóni Konráðssyni,

Prófasti í Hegraness Sýslu, og Sóknapresti til Mælifells og Reykja.

Videyar Klaustri. 1821,

Prentad á kostnad Sølva Prests Þorkellssonar, af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.

B. Sevind

Stiptprófastur Þorkéll Olafsson er fæddur í þennann heim, þann 1ta Aug. 1738, ad Odda á Rángárvøllum, af Foreldrum: Olafi Biskupi Gíslasyni og Margretu Jakobsdóttur; var Hann heitinn eptir Þorkéli Presti Oddssyni í Gaulverjabæ, sem deydi 4 árum fyrri. Arid 1747 fluttist Hann med Foreldrum sínum frá Odda ad Skálholti, en þadan 1754, eptir andlát Fødur Hans, med Módur sinni ad BræDratúngu. Hún andadist 1756, en þá hennar og Sona hennar eigur urdu svo starlega gjørkrafdar í álag á Biskupsstólinn, ad þeir einustu silfurhnappar, sem Þorkéll átti, vóru til þess skornir úr peisu Hans, og øll Hans Lærdóms-qver í álagid tekin; vard Hann ad læra med ødrum piltum á þeirra lærdóms-qver, hvar Hann

þetta gat fengid. Eptir andlát Módur Hans tók Högni Prófastur Sigurdarson Þorkél ad sér, en Frú Gudrídur Gísladóttir ól þá enn, eins og 2 undanfarna vetur, fyrir, ad Þorkéll fengi forsorgun vid Skálholts Skóla. Reyndist Hann þar þá þvílíkur námsþiltur, ad Hann í Lectiu-querum lærdi 8 edá 10 blød á dag, og mælt er: ad Hann einusinni hafi leikid sér ad 8ta blada Lectiu lærdómi á dag í Nucleo Latinitatis.

Vorid 1757 var Hann úr Skóla útskrifadur og settur Djákn ad Þyckvabæar Klaustri í Veri; en þar þad Klaustur og margir bæir í Sókninni lögdust hardtnær í eydi af því mikla sandfalli, sem uppkóm úr Mýrdals-jökli, nálægt veturnóttum 1755, fèck Hann þar ecki vidhaldrist, var því hjá Högna Prófasti til næsta árs, þá Finnur Biskup tók Hann til Skrifara.

Arid 1761 sigldi Hann til Kaupmannahafnar Háskóla, tók theologiskt Atteftaz, þann 28da Maji 1764, kom samsumars út hingad, og átti þá hvergi athvarf; tók Biskup Finnur Hann þá aptur í Skrifara þénustu.

Þann 9da Sept. 1766 fêck Hann Veitíngar-brêf fyrir Hvalsness Þíngum í Gullbríngu Sýslu, og vígdist til þeirra þann 6ta Okt. s. á, sem var 19di Sunnudagur eptir Trinitatis.

Arid 1769 vóru Honum veitt Seltjarnarness Þíng, hvar til Hann fêck medmæltar tillögur Biskups Finns, þann 26ta Maji s. á.; hafdi Hann medtekid Veitíngár-brêfid, þegar annar Atteftatus, Arni Þórarinsson, er sídar vard Biskup á Hólum, sókti um sama Prestakall. Ljet þá Stiptamtmadur í ljósi vid Þorkél Prest: ad Arni mundi klaga, hlyti hann ecki braudid, þared hann hefdi tillögur ens konúngl. danska Cancellíis um frama, og leitadist því eptir, hvert Þorkéll Prestur vildi ecki afstanda veitínguna vid hann? Þetta undirgéckst Þorkéll Prestur, og afhendti aptur Veitíngarbrêfid. Þessa qvadst Hann ætíd sídan notid hafa hjá sál. Stiptamtmanninum, med ødru fleira frá elldri tídum. Var Honum ætíd mjøg svo vel til hans og betur enn flestra annara; er þad audsjed af brêfum sál. Stiptamtmannsins til

Hans, ad hann hefir haft gott álit á Honum og borid til Hans mikla velunnun.

Þegar Halldór Prófastur Jónsson í Hegraness Sýslu og Dómkirkju-prestur á Hólum, deydi um haustid 1769, en tilnefndir Prestar vildu ecki taka sig upp frá búum sínum til ad þjóna Hóla Prestakalli, fèck Þorkèll Prestur, þann 20ta Decbr. s. á., eldúngis óvænta köllun frá Biskupi Gísla Magnússyni á Hólum, til ad vera þar Dómkirkju-prestur, hverju Hann gjarnsamlega tók, og kom þángad þann 4da Aug. 1770.

Þann 24da Sept. 1774, giptist Hann Ingigérdi Sveinsdóttir Lögmanns Sölvasonar, og Málfrídar Jónsdóttur; deydi hún ári sídar af barnsförum, þegar hún fædt hafdi þeirra einka Son Sölva — nú Þinga-prest til Flugumýrar og Hofstada í Skagafirdi. — Hann tregadi hana mikid, og giptist ecki sídan.

Arid 1781 ferdadist Hann á Sudurland ásamt Biskupi Jóni Teitssyni og *Rector Mag.* Hálfdáni Einarssyni, skickadur ad mæta í þeirri af Konúngi skipudu Biskupsstóla Nefnd.

Þegar Arni Biskup Þórarinsson var fyrir rúmu ári kominn ad Hólum, vard Þorkéll Prestur. þann 12ta Nóv. 1785, eptir vali Presta, af Biskupi settur Prófastur í Hegranesi Sýslu, og sama ár af sama Biskupi falin á hendur umsjón Skólans, eptir þad Stólshaldari Jón Arnason vidskildi. Kom þá og Dómkirkjan, med telnverdu, henni til inntekta og vidurhalds tillegdu jardagózi, undir Hans umsjón. Skólans umsjón hafdi Hann á hendi um 4 ár.

Eptir fráfall Arna Biskups þann 5ta Júl. 1787, var Þorkéll Prófastur af Kammerherra og Stiptamtmanni Levetzow settur Stiptprófastur Hóla Stiptis, uns Sigurdur Biskup Stephánsson tók þar vid Embætti 1789.

Eptir þessa Biskups andlát, þann 24da Maji 1798, var Hann á ný, af Stiptamtmanni Ó. Stephánssyni, settur Stipt-prófastur, uns Biskup Geir Vídalín, eptir Kóngsbréfi frá 2rum Okt. 1801, tók ári sídar vid Embættisverkum í Hóla Stipti.

Vid

Vid Hóla Stóls jarda sølu og Skólans burtflutning árid 1802, ratadi hann þau ókjør, sem dæmafá og eptirminnileg munu þykja, ad verda allt í einu, fyrir utan nockurt vitanlegt afbrot, sviptur sinum árlegu kostpeningum 65 rdlm 60ß, sem var allt Hans lífs-braud, ad undanteknum fáeinum Lambseldum, Dagsverkum og Tiundum, sem falla í Hóla Sókn; ad vísu tilbaud Jardaverdleggíngar og Solu-Nefndin Honum ad kjósa handa Prestinum til Hóla einhverja bújørd í Hóla Sókn; en Hann tók því tilbodi heldur í styttíngi, og engin jørd vard sídan þar til áqvørdud. Stód Hann þar þá uppi slyppur og snaudur, bjargarlaus og húsvilltur. Hans einka Sonur, líka bláfátækur og ómegd hladinn, Sølvi Prestur á Hjaltastødum, fleck ecki med øllum sínum sonarlega góðvilja addugad Honum; ad vísu baud hann Honum til sín, ad lída súrt med sér og sætt, en Stiptprófastur vildi hverki Hóla né Kall sitt yfirgéfa, og qvadst þar mundi fyrirberast láta til sídustu laga. En med því ófhynt var, hvert nockurr annar yrdi til, ad Honum frágengn-

um, ad þjóna því af sér gengna og ljens-jarda-lausa Hóla Prestakalli, þó Hann væri þar rétt sem á flædiskéri staddur skutu Hóla ábúendur skjóli yfir Hann, og veittu Honum vægun til skiptis, móti Hans litlu inntekt af Sókninni.

Frá Prófasts Embætti fékk Hann lausn árid 1803 hjá Biskupi G. Vidalín; en 1808 skiladi Hann Hóla kirkju og henni tilheyrandi, þá verandi Hóla Egendum; hafdi hún þá tapad miklum hluta eigna sinna, og var ecki skila von betri af Honum þá beisnaudum. Dvaldi Hann þá optarst mjeg einmana og í einhýsi í nýu Timburstofunni á Hólum í mörg ár, vid stak-legt munadarleysi og stundum skarpann kost. Til eru enn lifandi menn, sem muna, ad optar enn sjaldnar vidbar, ad Hann hafdi ecki annad til middags-verdar ad nærast á, enn eldhúss-reyktann Hákall, er Hann keypti blautann, og þad af svo skornum skamti, ad 5 lód sagdist Hann ætla sér til middags máltídar, og qvad sællífi, ef braudbita hefdi med. Pension fékkst ecki, né bót á inntekta missir Hans, þó bedid væri, nema ávæni eitt frá Cancelliinu í brefum

til Biskups G. Vidalíns af 28da Nóv. 1812 og 20ta Febr. 1813. Var þá í tilgátum og ecki annad sjáanlegra, enn þessi gódi Öldúngur mundi vesslast upp í hardrétti og annari vesæld; þó'ti nú æsi Þorkélls Stiptprófasts mjøg umskiptileg ordin og umhyngsunarverd, og hørmndu hana margir, einkum af Kénnilýdnum, sem allsjafnt elskadi hann og vyrdti, og hrylldi vid þessu dæmi. Var í rádagjørd, ad þeir sáu, sem skárst megandi væru af nálægum Prestum, legdu saman í einhvern litinn lit's forda handa Honum, en þad lendti þó í tómri rádagjørd, nema hvad vissir gódkunníngjar Hans greiddu fyrir Honum.

Á id 1815 þann 4da Júlii inngaf Hra. Conferenceráð Thorarensen skarpa kløgun til Biskups G. Vidalíns um forsómun Stiftprófasts Þorkélls í Embættis-verkum, einkum úngdómsins uppfrædíngu, baud Biskup Jóni Prófasti Konrádssyni ad ransaka þad málefni, og reyndist úngdómurinn betur uppfrædður, enn vænt var; en til húsvitjana og annara ferda í Sóknina syndist Hann þá, 78 ára gamall

ecki sær, þar Hann átti enga hestsnefnu, ecki reidtýgi og ecki naudsynlegann klædnad ad skýla kroppnum med.

Í Augústó 1816 sagdi Hann sig algjörlega frá Kallinu, en litlu sídar feck Hann ávísun frá Biskupi G. Vídalín, ad kongúngleg Hátign hefdi veitt Honum 50 rbdli S. V. Pension árlega, og enn nú til bráda⸗byrgda telkverdt penínga tillag uppí Embættis-laun Hans, sem af Honum vóru tekin og hverra Hann lengi hafdi þarfnast. Vid þenna fagnadar bodskap, samt medfylgjandi mjeg svo hjartnæmt bréf Hra. Biskups G. Vídalins, brast sá gódi Öldúngur í fegins loigjördar og þacklætis táraflód, fyrir Guds og manna hjálp vid sig, bædi yfir höfud og þessa sérílagi; var sú sjón mjeg inntakandi, því framar, sem hún var sjaldsjenari mót líkindum, í Hans undanförnu laungu bágindum. Bænkadist nú hagur Hans skjótt aptur, svo Hann hafdi nú nægilegt fyrir sig ad leggja, og líka til ad víkja naudstöddum, sem Honum var ecki leidt. Þjónadi Hann enn nú, sem uppgjafa Prestur, Kallinu, til þess 10da Aug.

1817, þá Eptir-madur Hans tók vid því af Honum.

Árid 1818 var bætt vid fyrr umgetna Pension Hans 100 rbdlm, og lifdi Hann svo á sínum elskudu Hólum þad eptir var lífdaganna, vid allbærilega hagsmuni og heilsukjør, til þess 26ta Janúarii 1820, þá Hann tók, fyrir manna sjónum, hæga sótt, sem leiddi Hann til bana á 4da degi þar eptir, ad morgni þess 29da s. m., á 82ru alldurs ári, er Hann, sem Júbílkénnari þjónad hafdi í Prests Embætti í 50 ár og 1 betur, eptir þad Hann braudinu frá sér sagdi. Hafdi Hann þá verid á Hólum samfleytt 50 ár og á þeim tíma í 47 ár Dómkirkjuprestur, 15 ár Prófastur í Skagafjardar Sýslu og tvisvar Stiptprófastur eptir fráfall Biskupanna þar, Árna og Sigurdar, eptir hverja, og Biskup Jón Teitsson, ásamt þrjár Biskups Frúr Hann predikadi, en vígdi 8 Presta og þaradauki í forfellum Árna Biskups 2, en í umbodi Biskups G. Vídalíns 3.

Stiptprófastur Þorkéll var madur tígugulegur ásýndum, med hærri og þreklegri mønnum á vøxt, kurteys, blídur og gladsinna í um-

gengni, rammr að abli, mun þó sálar styrkleiki Hans engu minni verið hafa, sem ecki bognaði, svo menn vissu til, við mótgáng Hans, hverjum frá sagt hefir verið, nema við lát Konu Hans. Við harðindi þau, Hann leið frá 1802, var Stiptprófastur Þorkell jafnglaðvær og rólegur, enginn heyrði Hann qvarta um neitt, heldur enn allt léki í lyndi; ecki ofunda neinn; ecki hallmæla neinum; lás Hann ydnglega í bókum og var manna minnugastur; glaptist Honum ecki heldur stórum sýn til dauðadags. Hann er talinn mesti Saungmaður sinnar tíðar í Hóla Stipti, máské og þó víðar væri leitað hér um land, bæði að raustu og kunnáttu, og var eitthvert hið mesta spak- og góð-menni. Var líkför Hans gjør vyrðugleg á Hólum, og Honum fylgt til moldar norðanundir Sakristíinu, þann 11ta Febr. 1820; hélt Jón Prófastur Konráðsson Ræðukorn yfir kistu Hans, útaf Salómons orðum, Orðsqv. 16 Kap.: Sá, sem stjórnar geði sínu, er betri enn sá, sem yfirvinnur borgir.

## GRAFSKRIFT:

HJER ERU, GODFRÆGS.
HULDAR LEIFAR.
AULDÜNGS.
THORKELLS. OLAFSSONAR.
STIPT-PROFASTS *HOLA.*
STIPTIS. HINSTA.
HANN. VAR. FÆDDUR.
1. AUG. MDCCXXXVIII.
PRESTVIGDUR. MDCCLXVI.
OG. PROFASTUR. MDCCLXXXV.
TVISVAR. STOD. FYRI. STIPTI. NYRDRA.
ANDADIST. AR MDCCCXX,
XXIX JANUARII.

*Merkilegur var Hann ad mannvyrdingu,*
*Meir þó ad grandvöru gódfinni,*
*En þolgœdi mest og þreki Sálar.*

J. ESPOLIN.

1.

Þá Davíd gljúpur giekk
Frá gref þess látna
Abners, svo ansad fiekk
Með áſýnd grátna:
„Vitid! í Dag
Fallinn er frægsti Madur!"
Þessi' er vor þánki' ad von
Þorkjell fyrst Olafsson
Sjest hjer sáladur.

2.

Hann barst í þennann heim,
Af háu Standi.
Forlögum fylgdi þeim,
Frömunar Andi.
Prests- og Prófasts-
Veitti forstödu fróma,
Embættum, eins var þad,
Í Biskups tvisvar stad
Hjer sat med sóma.

3.

Líkhaminn blóma bar
Og burdi sterka;
Rómsældin' rödud var
Vid reglu merka;

Hans hafdi Sál
Lærdóm og greind ad geyma,
Miúklyndi, mannúd, trygd,
Makalans þokgieds-dygd
Hier áttu heima.

4.

Þier, Alldar upplósin
Arbornu Synir,
Miklir ad menningu
Og menta Vinir!
Sýnid eins þrek
J þraut og mæglun stillid;
Hugprúdu Hetjur þá,
Sem hrósi girnist ná,
Fór þessi fyllid!

5.

Öldúngur Jslands,
Einn Júbil-Lærc,
Hvers Sálar heleiks glans
Vid hagraun greri!
Mannndygda klár
Minning ei hjá oss rotnar,
Þó fallinn súni nár,
Fegursta Júbil-ár
Þitt aldrei þrotnar!

P Petursson.